hlióð sem j viðum ok j grôsum ok þo af hrêringh noekurss hrêrilegs likama. Af lifande hlutum þeim er skyn hafa verðr annat hlioð þat er rôdd heitir en annat þat sem eigi er rǫdd. sva sem fótastapp êða handaklapp êða annat þuilikt. Rôdd er hlióð framfêrt af kuikuendiss munne formerat af niu natturligvm tolum lungum ok barka tunugu ok tueim vôrrum ok fiornm tônnum. Enn priscianus segir rôdd vera hið granlegzta loptzius hôgg ok einkanliga eyrum skilianlikt. Rôdd greiniz a marga uega. aunnur rôdd er ritanleg en aunnur oritanlegh. Su er oritanlegh sem eigi ma stôfum greina. Ritanleg rôdd er ônnur merkileg en aunnur omerkilegh. Su er omerkileg sem til engrar nytsamlegrar merkingar er sett sem bumbo biecrix. Merkilegh rôdd er aunnur af natturu en aunnur af setning eða sialfuilia. Merkiligh rôdd af natturu er barnagratr êða siukra manna stynr êða annat þuilikt. Merkilegh rôdd af setningu er su er framfêriz af sialfuilia mannzens suo sem þetta na(m). Maðr merkir kuikennde skynsamlegt ok dauðlikt.

[1]Stafr er hinn minnzte hlutr samsettrar raddar sa sem rita ma ok er stafr kallaðr hinn minnzte hlutr j þui sem tilheyrir allre samsetning stafligrar raddar þviat ver skiptum bêkr j kapitula enn kapitula j klausur êða vers en klausur j malsgreinir mals greinir j sagnir sagnir j samstôfur samstôfur j stafe. En þo eru stafir natturliga óskiptilegir þviat stafr er rôdd en rôdd er lopt eðr af lopte formerat. En hvart sem rôdd er lopt êða loptz formeran þa er hon samsett af sinum paurtum suosem loptið með þvi at þat er likamlegt ok aller likamir eru samansetter af sinum paurtum. en jafn hlutr verðr af jôfnu efne at geraz suo sem holld af hollde. Enn svo sem j natturlegum hlutum[2] eru noekurir þeir hlutir sem einfalldir kallaz suo sem fiorar hôfutskepnur elldr ok jôrð vatn ok lopt ok kallaz þessir hlutir eigi af þvi einfalldir at þeir se oskiptilegir helldr af

---

1) *Literæ initiali et rubro vacuum spatium relictum est.* —
2) *sic membr.; rect.* likômum.

þvi at huerss þeirra j. hlutr er iafn sinu ôllu suo sem litill gneiste hefir jafna natturu hinu mesta báále. Suǫ eru ok stafir oskiptilegir j misiôfnu efui. eða j þa hlute sem oliker eru. þviat a eða aðrir raddarstafir hafa stundum skamt hlióð en stundum lanngt ok ef þeir hafa lanngt hlióð þa hafa þeir tuo tima. Philosophi kôlluðu stafena elementa. þat þyðir hôfutskepnur. þviat suo sem aller likamer eru skapaðer af fiórum hôfuðskepnum suo gera ok stafuir samsettir alla stafliga rôdd. suo sem nôcknrskonar likam. þviat rôdd tekr eyru ok hefir þrenna mêliugh suo sem allt annat þat sem likamlikt er. þat er hêð ok leingd ok breidd. Hêð er upp ok ofan. en leingd fyrir ok eftir en breidd er ṭil hêgri hanndar ok vinstri þviat rôddin ma ôllum megin heyraz. Samstôfur hafa hêðir j hlioðsgrein en breidd j annda. en leingd j tima. þuiat huer samstafa er annaðhuort huôss êða þunngh êða vmbeygilegh. Hvôss hlioðsgrein er su sem skiotlega fer framm með upp hôlldnu hlioðe suo sem þessi samstafa huat. þunng hlioðsgrein er su sem hefz af lagu hlioðe ok dregz niðr j enn lêgra hlioð. sem hin fyrsta samstafa þessa nafns. hareyste. vmbeygileg hlioðsgrein er su sem hefz af litillatu hlioðe ok hefr sik upp þaðan j hvassa hlióðs grein en fellr niðr at lyktum j þunga hlioðsgrein svosem þetta nafn. hraustr. Huerr[1] samstafa hefir annathuart j frammflutningh linan annda eða snarpan ok er sa annde her kallaðr hrêringh frammflutningar samstôfu. Með snôrpum annda verðr samstafa framfêrð suo sem hin fyrri samstafa þessa nafns þurvir. Með linum annda flytiaz samstôfur suo sem þessar. langan tima. Hverr samstafa er annathvart lônngh êða skômm ok er skômm samstafa skiótt frammflutt suo sem hin fyrri samstafa j þessu nafne. Are. lônng samstafa er seinliga frammflutt ok hefir tuẹr stundir suo sem hin fyrre samstafa j þessu nafni hare. Stunnd eða tíme er kallaðr duôl mêlande frammflutninngh raddar.

---

[1]) *sic* (Hu'r), *membr.*

[1]Stafr hefir þriu tilfelli Nafn. figuru. ok velldi êða mátt. Suo segir priscianus at huerr raddarstafr hafe þriu hlioð êða fleire suo sem a ef þat er scamt hefir fiórar hlioðsgreinir. huassa hlioðsgrein fyrir utan ablasningh h. suo sem her are. þunga hlioðsgrein en fyrir vtan h. sem her. á. hvassa hlioðsgrein með ablasningh h. sem her. hafe. ok þunnga hlioðsgrein með h. sem her. hafandi. Lanngt a hefuir sex hlioð ef þat hefuir ablasning h þa berr þat annathuart huassa hlioðsgrein êða þunnga êða vmheygiliga. Slikt hið sama ef þat hefir eigi ablasningh hlioðar þat a þria uega. suo sem þesse nôfn. are. aranna. ara. Með þessum hêtti ma ok aðra raddarstafe greina en j ok v hafa þvi fleire hlioðsgreiner at þau eru stundum samhlióðendr suo sem j þessum nôfnum jarl vitr. Annat tilfelle stafs er figura þat er mynd êða vôxtr stafanna. Þriðia tilfelle stafa er mattr þat er sialf frammfêringh stafanna ok merking þeirra. fyrir þann sama mátt stafanna eru bêði fundin nôfn ok figurur. Sumir meistarar kalla skipan hið fiórða tilfelle stafs. en þat kallar priscianus einn part þann sem mêtti stafsins til heyrir.

[2]Samstafa er samfylleligh stafasetningh með einum annda ok einne hlioðsgrein ok sundrgreinilega frammfêrt. Samstafa hefuir fiógur tilfelli staf êða tôlu tið anda ok hlioðsgrein. Huerr samstafa hefir stafa tôlu. einn staf eða fleire. Einge samstafa hefir fleire stafe enn .vi. j latinu male en j norrênu male mega standa .vii. eða .ix. j einne samstôfu sem her spenskr strendzkr. J latinu standa tueir samhlioðendr eð flesta fyrir raddarstafe en þrir eftir. en j norênu meigu standa þrir samhlioðendr fyrir raddarstaf en .v. eftir. sem skilia ma j þeim nôfnum sem fyrr voru rituð. Þessar samstôfur gera mesta fegrð j skalldskap ef einn raddarstafr er j tueim samstôfum. ok hinir sômu stafir eptir. sem her. snarpr garpr ok kôllum ver þat aðalhendingar. En ef sinn raddarstafr er j huerre samstôfu ok aller einir

---

[1]—[2]) *Literis initialibus et rubris spatia vacua relicta sunt.*

samhlioðendr eftir sem her. rôskr vaskr. þat kôllum ver skothendingar. Þessar hendingar þickia þa bezt falla ef tuér samstôfur eru j huerre sôgn ok hinn same raddarstafr j fyrre samstôfu huerrar sagnar ok suo samhlioðendr þeir er fylgia. en hin siðarre samstafa huerrar sagnar se ôll[1] iôfn við sik. suo sem her. aller snialler. ok eru þessar hendingar viða settar j latinu skalldskap sem þetta.

Ante chaos uirginum indigeste moles[2]
adhuc yle grauida fetu magne proles[3].

Þerssar samhendingar eru ok settar j norênu skalldskap j þeim hêtti sem ver kôllum runhendu. sem Snorre kuað.

Orms er glatt galla
við gumna spialla.

Latinu klerkar hafa ok þa hending sem þeir kalla consonantiam ok skal vera hinn same raddarstafr hinnar efri samstôfu huarrar tueggiu sagnar. sem her. estas. terras. Þersarrar henndingar er litt geymt j norrênum skalldskap. þegar fleire eru samstôfur j einne sôgn en ein. Annat tilfelle stafa[4] er tið. þviat huerr samstafa hefir annathuart eina tið êða tuêr. êða suo sem priscianus segir. at sumar samstôfur hafa halfa aðra stund êða halfa þriðiu enn sumar þriar stundir. Skamma stund hefir su samstafa sem raddarstafr hennar er natturliga skammr. ok kome eigi tueir samhlioðendr eptir. sem þessi nôfn. are. ape. Halfa aðra stunnd hefir su samstafa sem vera ma huart er uill lônng eða skômm suo sem furre samstafa j þersum orðum huatra spakra. Halfa þriðiu samstôfu[5] hefir su samstafa er einn samhlioðannde stendr eftir raddarstaf natturliga langan. sem her hiol sol. Þriar stundir hefir su samstafa sem tueir samhlioðendr standa eptir langan raddarstaf en þo setia nuverandi klerkar j uersagerðir annathvart einnar stunndar

---

[1]) *supra lineam.* — [2]) *sic membr. pro:* molis. — [3]) *sic membr. pro:* prolis. — [4]) *sic prave membr. pro:* samstôfu. — [5]) *sic prave membr. pro:* stund.

êða tueggia. Þriðia tilfelli samstôfu er rôdd[1]. þuiat huerr samstafa hefir annathuart linan anda eða snarpan. Annde er her kallaðr hrêring frammflutningar samstôfu. Snarpan anda hefir su samstafa sem með digrum annda er framm-flutt sem þessar sagner. braustr. horskr. êða þêr aðrar sem ablasningar nóte er j upphafe skipaðr. h er kallaðr merking êða nóte ablasningar. þuiat hann er eingi stafr fullkominn fyrir sik. huarke samhlioðande ne raddarstafr. Linan anda hafua þêr samstôfur. sem eingi ablasningar nóte er j upphafi settr. en þo þikkir betr sama j norrênu skalldskap at annat huart hafe ablasning hôfutstafir ok suo stuðlar þeirra êða eingi þeirra.

Fiorða tilfelle samstôfu er hlioðsgrein. Hlioðsgrein er her kôllut reglulegh hlioman raddarennar ok merkileg framm-fêring. Huerr samstafa hefir annathuart huassa hlioðsgrein êða þunnga êða vmbeygiliga. huôss hlioðsgrein hefz af litlu hlioðe ok enndiz j huassara hlioð suo sem her. var. þar. ok er hon suo merkt ´. Þunnga hlioðsgrein hefuir su samstafa er hefz af litlu hlioðe ok endiz j lêgra hlioð. sem hín fyrre samstafa j þessum nôfnum. hara. sara. ok er su hlioðsgrein suo merkt `. Vmbeygileg hlioðsgrein er su samstafa sem hefz af litlu hlioðe ok dregzt upp j huast hlioð en niðr at lyktum j lagt hlioð. suo sem þessar sam-stôfur árs fárs ok er su hlioðsgrein suo noteruð ^. Hlioðs-grein merkir hêð samstafligrar raddar. en annde digrleik hennar suo sem skilia ma at huern raddarstaf verðr at nefna meirr sundrloknum munne ef ablasning fylgir. en tíðar tilfelle merkir sem fyrr er sagt leingd samstafligrar raddar.

[2]Saugn er hinn minnzte hlutr samsettz mals. hon er kôllut einn lutr af þvi male sem fullkomið sen hefuir þessi sôgn er af alþyðu kôlluð orð. Aristotilas[3] hinn spaki segir nafn ok orð vera tuo hlute mals greinar. þuiat nafn ok orð saman ...... teingdir gera fullkomna malsgrein. sem her.

---

[1]) *sic, ut videtur, mbr.; rect.* andi. — [2]) *Literæ init. et rubro vac. spat. relictum est.* — [3]) *sic mbr. pro:* Aristoteles.

maðr rennr. En meistari priscianus telr atta vera parta malsgreinar. nafn. fornafn. orð. viðrorð. hlutţekning. samsetning. fyrirsetning. meðalorpning. hann greinir glôggliga natturu huerss þeirra. Nafn er hlutr malsgreinar sa sem ueitir eiginlegan êða sameiginlegan huiligleik huerium hlut êða likam. Nafn er êzt allra sagna. þuiat þat er svo sem efne eða grundvôllr alls mals. þar nêrst er fornafn suo sem sett j stað nafnsens sem hleytiss maðr fyrir meistara ok merkir þat þriar personur, en nafn merkir eina. þar nerst er orð er skryðer ok formerar nafnet suo sem mynd efne. þviat þat skyrir tilfelle nafnsins j giôrð eða piningh. Viðrorð fegrir ok endimarkar orðet j þa liking sem viðleggianleg nôfn gera[1] vndirstaðleg nôfn. suo sem her. Sterkr maðr berzt hraustliga. Hluttekning er fraskilin orðe. þuiat hon merkir faull ok kyn sem nafn en j þui skilz hon fra nafne at hon merkir gerð eða pining ok hefir ymsar stundir sem orð. Samteingingh knytir saman nôfn êða aðra parta êða sialfar malsgreinir. suo sem her.

Hringr ok dagr a þinge.

Fyrirsetning er eiginleg til þess at þiona ôllum fôllum nafnsens suo sem her. til borgar af skipe. Meðalorpningh synir hugþocka mannzens. ok er hon iafnan fraskild ôðrum pôrtum sem her. vei hai.

[2]Barbarismus er kallaðr einn lastafullr hlutr malsgreinar j alþyðligri rêðu en sa er j skalldskap kallaðr metaplasmus. Barbarismus verðr a tuêr leiðir. j framflutning mals ok letri. hann hefuir fiorar kynkuisler. viðrlagning. ok aftekning. skiptinng ok vmsnuning. Þat ma verða j einum staf ok samstôfu ok j tilfellum samstôfunnar stund ok hlioðsgrein ok ablasning. Barbarismus er með ôllu flyiande j alþyðu orðtæke en j skalldskap er hann stundum leyfðr sakir fegrðar eða nauðsynia. Vm aftekning stafs verðr barbarismus sem eigill kvað.

---

[1]) *excidit:* við. — [2]) *Literæ init. et rubro vac. spatium relictum est.*

Erumk auðskepð vinar mins
ionlocri þviat valit liggia
magar þoriss tven ok þren
mêrðar efne a tungu mer.

Her er aftekinn hinn siðarzti stafr j þessum tueim nôfnum tuen ok þren fyrir fegrðar sakir þviat þa þickir betr hlioða þessar samstôfur j kuiðu hêtti at þêr hafe vmbeygiliga hlioðsgrein helldr en huassa þar sem þriar samstôfur eru j visvorði ok ma þat kalla at her verðe barbarismus j hlioðsgreina skipte. J aftekning samstôfu verðr barbarismus sem kuað Harekr j þiottu.

Raðit hefi ek at riða
rinleygs heðan mína.

Her er sett rin fyrir rinar þviat ofmargar verða ella samstôfur j visu orðe. Um viðrlagning stafs verðr barbarismus sem qvað Auðun illskêllda.

Maðr skyllde þo molldar kenni seiðs þóat kynne
megia huerr of þegia kleppdôggs hars lôgguar.

Her er sett megia fyrir mega ok aukit einum staf ok gerr suo lônng samstafa af skammri þuiat ella hellzt eigi rett kueðande j uisuorðe. Vm viðrlagning samstôfu verðr barbarismus sem glumr kuað.

Enn ueit ek at hefr heitið ser of slikt til þeirra
hans broðir mer goðu seggfiôld huaðartuegge.

Her er huaðartueggi sett fyrir huartueggi til þess at kueðannde halldiz j uisu orðe. Vm stafaskipte verðr barbarismus sem arnorr kuað.

Sumar hûern frekum erne.

Her er sett huern fyrir huert til þess at hendingar halldez j drottkuêðum hêtti ok ma her kalla bêðe stafaskipti ok suo samstôfu. J stafasnuningh verðr barbarismus sem her.

Reið brynhilldar broðir
bort suo at hug ne skorte.

Her er bort sett fyrir brott ok skipt suo stôfum at r stendr fyrir t. til þess at hendingar se jafnhafar. Vm stundar viðrlagning sem eilifr kuað guðrunarson.

Voru vônnd ok myra spell var aðr of alla
verðr hitt at þau skerða ól torraðin hóla.

Hann kallar torraðen ól vǫndôl ok gerir þessa samstôfu lannga ól til þess at hendingar halldiz sua at þêr se iafnhafar. Vm stundar afdratt verðr barbarismus sem her.

Svanr þyr beint til benia
blóðs vindara róðri.

Her er vindara sett fyrir vindára roðre. þessi samstafa er skômm gerr fyrir fegrðar sakir þuiat þa hlioðar betr. Þar er ok su skalldskapargrein er iafnan þickir vel koma ok menn kalla ofliost. Vm hlioðsgreinar skipti verðr barbarismus sem einarr kuað.

Vist erumk hermd a hesti
hefuir flioð ef vill goðan.

Her er annat af at ráða en mêllt er ok er her bêði breytt með mali ok sundrtekningu ok hlioðsgreinum ok skal suo skilia. Vist erumk hermd a hesti legg ek a io reiðe þocka. her er male skipt. þat skal suo punnkta ok j sundr taka. legg ek a ioreiðe þocka goðan. her er seni skipt. Hefir flioð ef vill. konu [má ná[1]. her er male skipt. konu máná. her er seni skipt ok suo hlioðsgreinum. Mà nâ. her er hvartueggi hlioðsgrein vmbeygilig. Má ná. her er huôss hlioðsgrein yfuir baðum samstôfum. ok er her bæði skipt hlioðsgrein ok aftekning hlioðsgreinar. þuiat huôss hlioðsgrein er gerr af vmbeygilegri ok tekin sua af þunng hlioðsgrein. Vm viðrlagning hlioðsgreinar verðr barbarismus sem sk(r)aut oddr kuað.

Ef vêri bil báru
brunnens logs su er vnnum
oppt gere ek oðar skipti
einrênlega a bênum.

Her er bênum sett fyrir bęnum. Vm viðrlagning ablasningar sem starkaðr gamle kuað.

---

[1]) *a* [ *conjunctim* (máná), *membr.*

Þann hefi ek manna hringhreytanda
mennzkra funndit hrammastan at afle.

Her er hranmaztan sett fyrir rammaztan til þess at qveðanndi halldiz j balkarlage. Vm aftekning ablasningar verðr barbarismus sem her.

Lofðungr geck at lackar
laut herr i gram[1] snerru.

Her er lackar sett fyrir hlackar at kueðannde halldiz. Enn verðr barbarismus a fleire leiðir ok eru figurur hans suo kallaðar. Moytacismus. lapdacismus. jotacismus. Þessar figurur verða um ofagra samsetning stafanna ok eigna sumir menn þessa lôstu solocismo. þviat þêr verða j fleirum sôgnum en j einne. Þersar figurur taka nafn af eiginlegu nafne eismos þat er brugðning eða spell. Moytacismus er þat ef samteinging sagna verðr af oftlegri samanlostningh. m. eins stafs sem her. Geyma mêrum heima. ok kôllum ver þat dregit a stal ef verðr a meðal hendinga. Lapdacismus er þat er tuô. ll. setiast fyrir einu. eða einn raddarstafr stanndi j meðal tueggia. ll. sem her.

Stendr af stala lunde
styrr þorrêðe fyrri.

Jotacismus er þat. ef einn samhlioðande stendr eftir raddarstaf êða j millum tveggia raddarstafua sem her.

Haði iarl þar er aðan
engi maðr[2] vnnd vanni[3].

ok sem olafr leggs son kuað.

Freyia angan leygiar.

En donatus telr þann lôst með barbarismo ef tueir raddarstafir iamlangir standaz ið nêsta j tueim samstôfum. sem her.

Þorði iðia orða.

Þann lôst kallar donatus collisiones ef m stendr j millum tueggia raddarstafa sem eyvindr kuað.

---

[1]) *sic membr.* (g^w m) *pro:* gras. — [2]) *sic membr.* (m^r), *metrum postulat:* mann. — [3]) *sic pro:* ranni.

Barum ullr um alla
jmunlauks a hauka.

Þat kallar hann hinn sama lôst ef ônnur samstafa er j niðrlagi orðs jôfn êða lik upphafe þvi sem eptir kemr sem einarr kuað.

Harðan þrytr a hvitum
harm solborgar armi.

Suo ok ef snarpir samhlioðendr rennaz j mot j tueim samstôfum. sem her er kueðit.

Her liggia brot beggia
bruðr strykvinna suða.

ok sem þetta.

Her fregna nu hygnir
hiôr flaugs brimis draugar.

Þessa lôstu telr donatus fyrir þvi með barbarismo at þeir verða j einni samstôfu þóat af þeim spillez stêrre sagnir.

*Her byriaz kenningar skalldskapar.*

[1]Skalldskapr er kallaðr skip dverga ok jôtna ok oðins ok funndr þeirra ok dryekr ok er rett at kenna suo ef vill bêðe skip ok dryek sem annarsstaðar j skalldskap ok eigna þeim. En skip ma kalla dyraheitum ok fugla ok hesta ok kenna við sór[2] ok allan reiða skips en kalla hesta heitum einum ef við sêkonunga er kennt. Dryek ma kalla siafar heitum ôllum ok fiarða. bylgna ok vatna allra ok kenna til horna êða aulkera. munnz êða goma. tanna êða tungu. Duerga ok jôtna er rett at kalla þioðar heitum ôllum ok sêkonunga. ok suo gram ok uisa ok slikum ôllum. ok kenna duerga til steina eða urða. en jôtna til fialla eða biarga. Steina ma kalla bein iarðar ok siofar ok uatna. en hus duerga. en grand þeirra hamdiss ok sôrla. Ecki skal þat kenna sem sialfs sins nafne er nefnt. en þat skal allt kenna sem annars nafne er nefnt en sialfs sins.

---

1) *Literæ init. vac. spat. relictum est.* — 2) *sic membr. pro:* sæ v. sio.

Orrostu ma kalla nafne nôekurs hareystiss skarksamlegs sem glaum êða hliom. ok kenna við herklêðe êða uôpn êða hlifar ok ma þa kenna við oðenn ok sêkonunga ef vill. Skiôlld ma kalla solar heitum ok tungls himins ok skyss. hann ma ok kalla vegg eða garð. balk ok brik hurð ok gatt þile grind ok segl tialld ok refil ok eigna avallt orustu êða oðne êða sêkonungum. Aull herklêði eru faut oðins eða sêkonunga. Aull hôgguopn ma kalla elldz heitum êða annarrar birte sem leiptr éða lios ok kenna við oðenn êða orrostu êða sêkonunga herklêði êða hrê hen êða bloð. Ôll vôpn eru trôll ok vargar ok hunndar herklêða ok hlifua. en laguôpn ma kalla fiska heitum ok orma ok kenna við herklêðe ok hlifar. sár êða bloð. Blóð er kallat siafar heitum ok vatna ok kennt við hrê êða ben. sár êða vnnd. Sio ma kalla garð lannda ok men. bannd ok bellte. lás ok fiôtur. hring ok boga. kalla ma hann ok heim sêkyqvennda hus ok jôrð ok gautu sêkonunga ok skipa. Ormr sa' heitir miðgarðz ormr er liggr vm lônd ôll vtan. þvi er rett at kenna orma alla suo til landa sem sio ok kalla bannd êða baugh iarðar. Orma er rett at kalla fiska heitum ok huala ef þeir eru kenndir við láð viðar[1] êða hraun gras êða griot gliufr eða heiðar. Orma jôrð er gull. reekia þeirra ok gata. Gull skal einnueg kenna til hanndar ok siofar ok til uatna allra kalla elld ok sol tunngl ok stiôrnu. kyndil ok kerti. dag ok leiptr geisla ok blik. ok við alla birte. ennda ma gull kenna til snêss ok jss ok kenna þa til hanndar. Baugr er fiôturr hanndar ok hannki ok virgill. Gull er korn eða melldr froða konungs en verð[2] tueggia ambatta hans feniu ok meniu. en sáð kraka konungs en frê fyrisvalla. byrðr grana haddr sifiar. tar mardallar. mal jôtna. Hringr heitir draupnir fyrir þui at hina niunndu hueria nott draup

---

[1]) *sic* (viðʳ) *membr. pro:* við. — [2]) *sic pro* verk.

af honum annarr hringr jafn hôfugr honum þvi er gull sveite hans. Hônd er hauka jôrð grunnd ok gata þeirra ok hestr. skip ok stallr. heitir hônd ok mynd. hônd er ok bol êða nauð bogi[1] êða tônngh kalla ma hana fót eða lim axlar. Horn ma kalla triaheitum ef þau eru kennd við dryck eða þat sem þau eru af. Horn ok ônnur ôlkerulld ma kalla síafar heitum skip êða hus allz dryckiar. Jss er himin eða hus siafar ok allra vatna ok híalmr þeirra. Hunndr er vargr eða trôll beina. Þers hlutar allz er trôll sem þat ma fyrir fara. Lerr[2] er trôll foðrs en elldr er trôll þers sem hann eyðir. griot ok ryð iarna. vôtn iarðar ok elldz regn êða skin snêss eða jsa. hirðir[3] hiarðar. Nott er angr êða sott fugla. snior er sott orma ok uetr. Vetr er nott biarnar. en sumar er dagr hans. Hestar trôllkuenna eru vargar en taumar þeirra eru ormar. dryckr varga er dreyri. Haukar ok hrafnar eru hrêfuglar ok suo ernir. Rett er at nefna til þess aðra fugla ok eigna oðne êða kenna við orrostu êða hrê eða bloð. Huern karlmann ma kenna feiti êða bræðe hrêfugla ok varga. ilrióð þeirra êða gómlítuð. karlmenn ma ok kalla tria heitum karlkendum ok oðens ok allra asa huart sem uill lofa êða lasta. ok kenna við herkléðe êða vôpn hlifar êða orrostu. skip eða gull. En ef illa skal kenna þa ma hann kalla allra kyquenda nôfnum karlkendra ok jôtna ok kenna til fêzlu nôckurrar. Kalla ma hann ok konunga heitum ok kenna hann við nôckurskonar verkfêre êða annat nôckut það sem hann er styrannde. kalla lesti ok þuerri allz gagns. Konor er rett at kalla triaheitum kuennkendum ok asyniu heitum ok eyia ok launda kuenkendra suo ok orrostu heitum. gram êða rêse ok slikum ôllum ok kenna avallt við gull ok glys þeirra ok við allt þat er þèr eiga j gripum ok við allar hannyrðir þeirra suo ok við ôl kerulld ok dryckiu. kenna ma þèr ok við sía ok steina ef uill.

---

[1]) *sic mend. mbr.; corr.* boga. — [2]) *sic mbr. (fæ = fe, 748).* — [3]) *sic mbr. pro:* hriðir.

Regin heita goð heiðin bönd ok rôgn kalla ma konur ok þeirra heitum ok kenna. En ef illa skal kenna þa er kona kennd við huatuetna herfilikt þat sem hon er styrannde. þnôl ok sueipu. hryðiu ok hlanndausu. skioða ok skreppa allra ódaða. þerss beðia er kona huerr sem hana a. Hár mannz ma kalla viðar heitum ôllum þess sem a iôrðu vex ok kenna við suôrð eða huirfil eða hnacka eða enni eða reik eða vannga. Hauss mannz er kallaðr huss heila. en grunnd hialma. Eyru[1] mannz eru kôlluð skip êða sialldr kinna eða vannga. heyrn eða hlust. Eyru eru ok[2] kôllut hlustar augu eða sion. Augu mannz ma kalla skiôlld eða skip êða himintungla heitum êða annarrar birti ok kenna við brynn êða brár. Nef mannz er kallat jnne êða skíp hors êða hnerra. Munnr mannz er kallaðr jnne eða skip allz froðleiks. Suo er ok briost kallat inne êða skip alldrs ok hugar hiarta ok allz þess er jnnan rifia er holldgroit. Tenn eru kallaðar góma griót. Tunnga er kôlluð ar êða stýri êða vôpna heíti ok kend til orða eða góma eða tanna. Hiarta er kallat steinn êða korn hnot êða epli. ok kennt til hugar. Hiarta heitir ok akarn. Gollôrr heitir þat sem nerst er hiarta mannz. hnetr heíta fyluíngar. Heimr er kallaðr hus eða ker veðra. en himinn erfiðe duerga þeirra fiôgurra er suo heita. Norðre. Suðre. Austre. Vestre. Himin er ok kallaðr híalmr êða salr landa en braut himíntunngla. Sól er kôlluð elldz heitum ok kennd til himins. Sègr heitir sárr en símul stông. bil ok híuki bera hann. þetta er kallat at se j tunngli.

Or ymis hollde
var jôrð of skôput.
en ór hans sára sueíta siarr.
biôrg or beinum
. . . . . . . . . . . .[3]
himin ór hausi hans.

---

[1]) *sic supra lineam.* — [2]) *supra lineam.* — [3]) *sine lacuna membr.*

en ór hans brám
gerðu blið regin
miðgarð manna sonum.
en or hans heila
voro þau hín hriðfelldu
ský öll of skôput.

Þat er rett at kalla jôrð holld ymiss en sía blóð hans. miðgarð brár hans en sky heila hans. Kuern het grotti er atti froði konungr. hon mol hvatvetna þat er hann villde gull ok sylfr ok aðra hluti. Fenía ok menía hetu ambattir þêr er molu. Mysingr herkonungr tok grottu ok let mala huita sallt a skip sin þartil er þau sucku a pêtlandzfirðe. þar er suelgr siðan þuiat síorr fellr j auga grottu. þa gnyrr siórr er hon gnyrr. ok þa varð siórenn salltr. Amsuartnir heitir uatn en lyngui hólme j vatnenu en síglítner huoll j holminum en þótti heitir hêll er stendr j huolenum. en ginul heitir rauf er boruð er a hêlínum. en hrêða heitir festr er fenrissvlfr er bunndenn með. ok er henni drepit j gegnum raufena. en gelgía heitir spyta su sem fyrir er stungin. Fiôturrenn heitir gle..nir sa sem honum helldr. Tueir fiôtrar voro gerfuir til hans. þeir dróme ok lêðingr ok hellt huarge. þa var gerr gleipnir or sex hlutum.

or kattar dýn.
ok or konu skegge
or fisks annda
ok ór fugla miólk.
or biargs rotum
ok or biarnar sinum
or þui var hann gleipnir gerr.

Þui er þat ecki eftir siðan at þat var þar allt til haft. Ar tuêr falla or munne honum. heitir aunnur vil en aunnur vôn. ok er þat rett at kalla vôtn hraka hans en giôlnar heita granar hans.

*kenningar gullz.*

[1]Suo er sagt at konungr sa sem reð halogalande er nefndr hôlge. hann var faðir þorgerðar hôlgabruðar. þau voro bêði blotuð ok var haugr hôlga suo kastaðr at þar var aunnur huerr flo af gulle ok sylfri. þat var blotfe. aunnur huerr fló var af molldu ok grióte. Suo kuað skule þorsteinsson.

Þa er rêfr vita reifniss
rauð ek fyrir suôldr til auðar
herfylgins bar ek hôlga
haugþak saman haugum.

J biarkamalum eru talen môrg gullz heite. þar segir suo.

Gramr enn giôflasti
gladdi hirð sína
feniu foruerke
fafniss miðgarðe
glasiss glóbarre
grana fagrbyrðe
draupniss dyrsueita
dune grafvitniss.
Ytti ôrr hilmir
alldir við toku
síafar[2] suarðfestum
suelle dalnauðar
tregum otrsgiôlldum
tarum mardallar
elldi órunnar
iðia glysmalum
Gladde gunnveitir
gengum fagrbvnir
þiaza þíngskilum
. . . . . . . . . . . [3]
rínar ryðmalmi
roge niflunnga
visi hinn vigdiarfe
vake balldr þeyge.

Gull er kallat i kenningum elldr handar êða liðar êða leggiar. þuiat þat er rautt. enn sylfr snêrr êða suell êða hela. þuiat þat er huitt. Með sama hêtte skal ok kenna gull til sioðs êða diguls êða lauðar. ok suo sylfr eð sama. En huortueggia gull ok sylfr ma vera griot handar êða halsgerð nockurss þess mannz sem forðum var titt at hafa men. [4]ok hringar eru bêðe sylfr ok gull ef eigi er annan ueg breytt. sem þorleikr fagri kuað.

[1]) *vacuum spatium literæ initiali relictum est.* — [2]) *sic mend. pro:* siflar. — [3]) *sine lacuna membr.* — [4]) *hic excidisse videtur:* men.

Kastar glamr a glêstar
gagn valstôðuar þegnum
unngr uisi gefr eisu
armleggs digul farme.

ok enn sem einarr kuað skálaglamm.

Liðbrôndum[1] kna lunndar
landfrékn iôfurr grannda
hyck at ek rêsiss recka
rinar griot of þriota.

Suo kuað einarr skula son.

Blóðeisu liggr bêðe
brags tueim megin geíma
síoðs á ek stôckua stríðe
snêrr ok elldr at mêra.

ok enn.

Dêgr þrumir huert en hiarta
hlyrskilldir rêðr milldu
heita blacks of huitum
hafley dígulskafle
alldri ma fyrir ellde
áls hrynbrautar skála
ôll við fólkafeller
framrêði snío brêða.

Her er gull kallat elldr[2] hrynbrautar en sylfr snêrr skálanna.
Suo kuað þorðr mauraskalld.

Sêrr á seima ryre
sígðis latrs at atti
hrauns glaðs vndins handa
hermoðr fôður goðan.

*Enn vm kenningar skalldskapar.*

[3]Nv skal heyra huernueg skálldskapenn skal kenna ok hôfut skállden hafa ser lika látið at yrkia eftir þersum

---

[1]) *hic mbr. inserit:* ligr. — [2]) *excidit:* áls. — [3]) *literæ initiali spatium vacuum relictum est.*

háttum ok kenningum. Suo sem segir arnórr jarlaskálld. at oðenn héti alfaðir.

[Nu ...[1] sliðr ...[1] segia þrytr alfôður ytum
sið lettir mer striða jarls kostu brim hrosta.

Her kallar hann skalldskapinn hrosta brím alfôðurs. Hannga goð sem hiallti kuað.

Nu er iodrôgum êgiss hygg ek at heimboð þiggi
arnar flaug vm bauga hannga goð af vannge.

Suo kuað víga glumr.

Lattiz herr með hôttu þotti þeim at hêtta
hanngatyrs at gannga þeckilegt fyrir brecku.

Sua kuað refr.

Opt kemr jarðar leiptra hollr af helgu fulle
er balldr hnígenn skalldi hrafna[2] lar mer stafna.

Suo kuað eyvindr skalldaspiller.

Ok sigurð hinn farma týrs
er suônum veitte fiôrfe nêmdu
hroka biôr jarðraðendr
haddingia vals. á óglóe.

Suo kuað glumr geirason.

Þar var þrafna byniar síalfr j sêki alfi
þeim styrðu goð heima sigtýr atals dýra.

Suo kuað enn eyuindr.

Gôndul ok skôgul huerr ynngua êttar
sendir gauta tyr skyllde með oðne fara
at kíosa of konunga ok j valhôll vera.

Suo kuað vlfr vggason.

Riðr at vilgi [bliðu hroptatyr vm huópta
vígfrêgr[3] en mer liða hroðr mál sonar bále.

Suo kuað hallfreðr.

Sannyrðinn spenr suerða
snarr þiggiannde viggiar

---

[1]) *sine lacuna membr.* — [2]) hranna *s.* hramna (hrana) *membr.* — [3]) *a* [ *sic contra metrum mbr. pro:* víðu, víðfrêgr.

bar haddaða byriar
[ bíf kuon[1] vnnd sik þriðia.

Her er þers getið at jôrð er kôllut kona oðens í skalldskap. Suo kuað eyuinndr.

hermóðr ok bragi
kuað hropta tyr
gangit j gegn grame
þuiat konungr ferr
sa er kappi þiekir
til hallar hinnegh.

Suo kuað steinþórr.

Forngerfan á ek fírnum
farms gunnhlaðar arma
horna fors at hrósa
hlítstyggs ok þó lítlum.

Suo kuað vlfr vgga son.

Þar hyek sígrunne suinnum
sylgs valkyriur fylgía
heilags tafns ok hrafna
hlaut innan suo minnum.

Suo kuað eigill skallagrimsson.

Blóta ek eigi af því
broður viliss
goð iarðar
at ek giarn sía
þo hefir mimmss vinr
mer of feingit
bôlfa bêtr
er ið betra telz.
Gafumz iðrótt
vlfs ok baga
vige vanr
vammi firða.

Her er hann kallaðr goð jarðar ok mimmss vinr ok vlfs bage. Suo kuað refr.

Þer eigum ver veigir
valgêtr salar brautar
fals hrannualar fannar
framr valr ramar giallda.

Suo kuað einarr skalaglamm.

Hlióta mun ek ne hlítir
her tyrs [ of þat[3] freyiu
fer[2] aurþeyse at ausa
austr ningaðar flausta.

---

[1]) *a [ sic contra metrum mbr. pro:* bið kuon. — [2]) fꝰ, *mbr.;* fyrir? — [3]) *a [ in margine eadem manu.*

Suo segir j eireks malum.

Huat er þat dêma | beidda ek upprisa
er hugðumz fyrir dag rísa | bekke at strá
valhôll ryðia | bíorker leyðra
fyrir vegnu folki | valkyriur vin bera
vakta ek einheria | sem viser kêmi.

Suo kuað kórmakr.

Almilldan bið ek alldar
allvalld of mer hallda
yggs bifvangi yngva
vngr fór hroptr með gungni.

Suo kuað þoralfr.

Sagðe hitt er hugðe
hliðskialfar granır sialfum
hlífar styggr þar er hôgnir
huarer magne varu.

Suo kuað eyuindr.

Hinn er surz | farmôgnuðr[1]
or sôckdôlum | fliugande bar.

Suo kuað brage.

Þat erum snemt at snemma
son alldafôðurs uillde
alfs[2] við inne þêfðan
jarðar reist of freista.

Suo kuað einarr.

Þuiat fiôlkostar flestu
flestr rêðr við son beslu
tekit hefir ek morðz til mêrðar
mêringr enþo fêra.

Suo kuað þorvalldr blônduskalld.

Nu hefir ek mart | barar bors
j míðe greipar | vm bura arfua.

---

[1]) *legi potest etiam* framôgnuðr. — [2]) *sic contra metrum mend. pro:* afls.

*Enn af þui sama.*

[1]Her skal segia huersu skalldin hafa kennt skalldskapenn eftir þessum heitum sem skrifut eru j þeirre frasôgn sem bragi skalld sagðe égi. Þat er at kalla skalldskapinn kuásiss dreyra ok duerga skip. duerga miôð. jôtna miôð. suttunnga miôð. oðinns miôð. aasa miôð. fôðurgiôlld iôtna. lôgr óðreris ok boðnar ok sonar. fullr lôgr hnítbíarga. feíngr ok funndr ok farmr ok giôf oðens. Suo kuað einarr skálaglamm.

Hugstoran bið ek heyra
hyr jarl kuasiss dreyra
folldar vôrð a fyrða
fiarðleggiat brim dreggiat.

Ok enn sem einarr kuað.

Vllar gengr vm alla
asksôgn þers er huôt magnar
byrgiss boðnar sorga
bergs grynne lá duerga.

Suo kuað ormr steinþorsson.

At veri borit biórs
brikar ok mítt lik
reckar nemi dauðs dryck
dualens j einn sal.

Ok sem refr kuað.

Griótalldar térr gilldi bergmêra glymr bara
goðreinar þorsteini bið ek lyða kyn hlyða.

Suo sem eigill kuað.

Buðumz hilme lauð
þar á ek broðrs um kuauð
bar ek oðins miôð
á eingla biôð.

---

[1]) *Literæ initiali spatium vacuum relictum est.*

Ok sem kuað glúmr geirason.

Hlyði hafra beiðir
hefz milldinga gillde
þui biðium ver þagnar
þegna tíon at fregnum.

Suo kuað eyuinndr.

Vilia ek hlióð
at hárs liðe
meðan gillings
giôlldum yppig
meðan hans êtt
ór huerlegi
galga fars
til goða telium.

Suo kuað einarr skálaglamm.

Eisar vargr fyri[1] visa
verk rôgniss mer hôgna
þytr oðreris allda
alldr hafs við fles galldra.

Ok enn sem hann kuað.

Nu er þat boðnar bára
berg sára têr vára
gerfi i hôll ok hlyði
hlióðfrey iôfurs þióðir.

Suo kuað eilifr guðrunarson.

Verði þer allz orða
oss grêr vm kuón mêrar
á sefreyne sónar
sáð víngiôfum ráða.

Suo kuað vôlu steinn.

Heyr mínsvinar mína
mer er funndr gefinn þunndar
við goma sker glymia
glavmbergs eigill strauma.

Suo kuað ormr steinþórsson.

Seggir þurfu at ala vgg
enngu sny ek j veðrs feíng
haðe kunnum hróðrs smíð
haga um minn brag.

Suo kuað vlfr vggason.

Hoddmilldum têr hilldar
hugreifum oleife
hann vil ek at giôf grimniss
geðfiarðar lá kueðia.

---

[1]) *in membr.* f' (*quasi* fer) *scriptum*, *uti sæpius pro:* fyri.

Skalldskapr er kallaðr síorr eða laugr duerganna fyri þui at kuásiss bloð var lôgr j óðreri aðr miôðrinn veri gerr ok þar gerðiz hann i katlenum oðreri. ok er hann af þui kallaðr huerlôgr oðens suo sem kuað eyuinndr ok aðr er ritat.

Meðan hans êtt galga fars
or huerlegi til goða telium.

Enn er skalldskaprinn kallaðr far eða lið duerganna. lið heitir aul. lið heitir ok skip fyrir þui er skalldskapr kallaðr skip duerga suo sem her segir.

Bêði a ek til bruðar
berghiarlls ok skip duerga
sollenn vinnd at senda
sein fyrnd gôtu eina.

*kenningar þors.*

[1]Hvernveg skal kenna þór. suo at kalla hann son oðens ok jarðar. faðir magna ok moða ok þruðar. ver sifiar. stiupfaðir vllar. stýrir ok eigannde miôllniss ok megingiarða ok bilskirniss. veriande asgarðz. miðgarðz. dolgr. bane iøtna ok trôllkuenna. vegannde hrunngniss ok geirraðar ok þríuallda. drottinn þialfa ok rôsku. dolgr miðgarðzorms. fostri vingniss ok hlóru.

*kenningar balldrs.*

[2]Huernueg skal kenna balldr. Suo at kalla hann son oðens ok friggiar. ver naunnu. faðir forseta. eiganndi hrinnghorna ok draupniss. dolgr haðar. heliar sinne. gratz goð.

*kenningar niarðar.*

[3]Hvernveg skal kenna Níôrð. Suo at kalla hann vagna goð ok vana nið êða van. faðir freyss ok freyiu ok fegiafa goð.

[4]Hvernveg skal kenna frey. Suo at kalla hann son niarðar ok broður freyiu ok enn vanagoð ok vananið. eigandi skiðblaðniss ok gullinnbusta. sliðrugtanni.

[1—4]) *Literis initialibus vacua spatia relicta sunt.*

*kenningar heimdallar.*

[1]Huernueg skal kenna heimdall. Suo at kalla hann son níu mêðra ok vôrð goða. huíta ás. loka dolg. mensêkir freyiu. Heimdallar [hôfut heitir suerð[2]. þuiat suo er sagt at hann var lostenn mannzhôfðe j gegnum. hann er eigannde gulltopps. ok tilsêkir vága skerss ok singasteins ok víndlerr deiler brisinga mens.

*kenningar tyss.*

[3]Hvernveg skal kenna tý. Suo at kalla hann einhendan ás ok vlfs fostra. víga goð. son oðens.

*kenningar braga.*

[4]Hvernveg skal kenna braga. Suo at kalla hann jðunnar ver. frumsmið bragar ok síðskeggia ás ok son oðins.

[5]Huernveg skal kenna viðar. Suo at kalla hann enn þôgla ás. eiganda járnskóss. dolg ok bana fenriss vlfs. hefni ás goðanna. byggui ás fauður tópta. ok son óðins ok broður ásanná.

*kenningar vala.*

[6]Hvernveg skal kenna vala. Suo at kalla hann son oðens ok rindar. stiupson friggiar. broður asanna. hefni ás balldrs. dolgr haðar ok bane hannz. byggiannde fauður túna.

*kenningar haðar.*

[7]Hvernveg skal kenna hauð. Suo at kalla hann enn blinda as. balldrs bana. skiótanda mistilteins. son oðens. heliar sinna. vala dólgh.

*kenningar vllar.*

[8]Hvernveg skal kenna vll. Suo at kalla hann son sifiar ok stiupson þors. aundur ás. boga ás. skialldar ás. veiðe ás.

---

[1]) *literæ init. spat. vac. rel. est.* — [2]) *a [ sic membr. pro:* sverð heitir hôfut. — [3 — 8]) *literis initialibus spatia vacua relicta sunt.*

*kenningar hênis.*

[1]Hvernveg skal kenna hêne. Suo at kalla hann sessa eða sinna eða mala oðens ok hinn skjóta ás ok hinn launga fót ok aurkonung.

*kenningar loka.*

[2]Hvernveg skal kenna loka. Suo at kalla hann farbauta son ok laufeyiar ok nalar. broður byleifs ok helblinda fauður vanargautz. þat er fennriss vlfr. ok iormunganndz þat er miðgarðzormr ok heliar ok naua. ala frênda ok fauður broður. ver sinna ok sessa oðens ok asa. heimsêki ok kistu skruð geirraðar. þiofr jôtna hafra ok brisinnga mens ok jðunnar epla. sleipniss frênda verr sigyniar. goða dolgr. harskaði sifiar. bôlfa smiðr. enn slêgi áss. rêgiande ok velannde goðanna. raðbani balldrs. enn bunndne áss. þrêtu dólgr heimdallar ok skaða.

*kenningar friggiar.*

[3]Hvernveg skal kenna frigg. Suo at kalla hana dottur fiôrgyns. konu oðens. moður balldrs. elio jarðar ok rindar ok gunnlaðar ok gerðar. suara nônnu. drottning asa ok asynia. fullu valshams ok fensala.

*kenningar freyiu.*

[4]Hvernveg skal kenna freyiu. Suo at kalla hana dottur niarðar. systur freyss. konu oðs. moður hnossar. eigande valfallz ok sêhrimniss ok frelsa brisinga mens. vanagoð ok vanadis. hít gratfagra goð. áástagoð.

*kenningar sifíar.*

[5]Hvernveg skal kenna sif. Suo at kalla hana konu þórs. moður vllar. hit harfagra goð. elia iárnsôxu. moðir þruðar.

*kenningar iðunnar.*

[6]Hvernveg skal kenna jðunne. Suo at kalla hana konu braga ok gêtannde eplanna. en eplin eru ellilyf ásanna. hon er ok ranfeingr þiassa jôtuns. Suo er rett at kenna

[1—6]) *literis initialibus spatia vacua relicta sunt.*

ása at kalla einn hvern þeirra annars nafne ok kenna við verk sín êða eign êða êttir. Suo eð sama má kenna ásyniur at nefna einhueria þeirra annarar nafne ok kenna við verk sín eða eign eða êttir.

*kenningar heimsins*[1].

[2]Hvernveg skal kenna himenenn. Suo at kalla hann ymiss haus ok jôtun haus. ok erfiðe eða byrðe duerganna. hialm vestra ok austra suðra ok norðra. lannd solar ok tungls ok himintungla vagna ok veðra. hiálmr eða hus loptz ok iarðar ok solar. Suo kuað arnorr iarlaskalld.

Vngr skiolldungr stígr alldri
jafnmilldr a við skialldar
þerss er grams und gômlum
nóg[3] rausn ymiss hause.

Ok enn sem hann kuað.

Biôrt verðr sól at suartri
sôckr folld j mar dôckuan
brestr erfiði austra
allr glymr siárr a fiôllum.

Suo kuað kolle.

Allz einnge verðr ínga bôðuar huatr ne betri
vnndir solar grundu brêðr landreki êðre.

Suo kuað þioðolfr hinn hvínverski.

Ok at jsíarns leiki moðr suall meiðe blóðe
jarðar son hinn diarfe mána vegr vnd hánum.

Suo kuað ormr barreyiaskalld.

Huegi er drôpniss drôgar
dis ramman spyr ek uisa
sa rêðr valldr fyri vellde
vagns brautar mer fagnar.

Suo kuað brage.

Hinn er varp á viðu yfir manna siôt margra
vinda aundur disar munlôg fauður augum.

---

[1]) *sic mbr.; corr.* himinsins. — [2]) *literæ initiali vacuum spatium relictum est.* — [3]) *sic contra metrum mbr. pro:* gnóg.

Suo kuað markus.

Fiarri hefir at finniz dyrre
flotna vôrðr á elkers botne
hafa leyfir huerr maðr êfi
hringvarpaðan gialfri kringdum.

Suo kuað steinn herdísarson.

Hás kueð ek helgan rêsi
heimtialldz at brag þeima
mêrð telz framm en fyrða
fer[1] þuiat hann er dyrre.

Suo kuað arnorr jarla skalld.

Híalpþu dyrr konungr dyrum
dags grundar hermunde.

Ok enn sem hann kuað.

Sannr stiller hialp þu sniôllum
soltíallda rôgnvallde.

Suo kuað hallvarðr.

Knútr verr jôrð sem itran
allz drottinn sal fialla.

Suo kuað arnorr.

Mikáll vegr þat er misgert þickir
manvitz froðr ok allt hið goða.
tígge skiptir siðan seggium
solar híalms á dême stóle.

*kenningar jarðar.*

[2]Hvernveg skal kenna jôrð. Suo at kalla hana ymiss holld ok moður þors dottur onars. bruðe oðens. eliu friggiar ok rindar ok gunnlaðar. suêru sifiar. golflok[3] ok botn [veðra. siôrr hallar dyra[4]. dottir náttar. systir auðs ok dags. Suo kuað eyuindr skalldaspiller.

Nu er alfrôðull elfar   ráð eru ramrar þioðar
jôtna dolgs of folginn   rikmagnaðrar 'slikrar.

---

[1]) *mbr.* f', *quod fortasse legendum esset* fyrr. — [2]) *literæ initiali vacuum spatium relictum est.* — [3]) *sic mbr.*; gólf, lok (?) — [4]) *a* [ *sic pro:* veðra hallar, sior dyra.

Suo kuað hallfreðr vandrêðaskalld.

Ráð laukz at sa siðan
sniallráðr konungs spíalle
atti ônga dottur
annars viði granna.

Ok enn.

Breiðleita gat bruðe stefnir stôðuar hrafna
baleygs at ser teygða stala riks at malum.

Suo er enn ritað.

Fiarre hefir at finnez dyrre ꝛ cetera.

Suo kuað þioðolfr.

Vtan bindr við enda hreins við hufe rónum
elgvers glôðuðr hersa hafs botne far gotna.

Suo kuað hallfreðr.

Þui hygg fleyiannde frêgían
ferr jôrð vnd menþuerri
itran einn at lata
auðs þerssa miôk trauðan.

Suo kuað þioðolfr.

Dolg líos hefir dasi endr þa er eliu rindar
darrlatr staðit fiarre jmynda tok skynder.

*kenningar siofar.*

[1]Hvernig skal kenna sio. Suo at kalla hann ymiss bloð. heimsêki goðanna. ver ránar. faðir êgiss dêtra þeirra er suo heita. himin glêfa dufa. bloðughadda. hefring. vðr. hrônn. bylgia. bara. kolga. lannd ránar ok êgiss dêttra ok skipa ok skips heita kialarr stals smiða. syiu. fiska. isa. sêkonunga leið ok brautir êgir. hringr eyia ok lannda ok skeria dorgar lað ok sêfugla ok byriar. Suo kuað ormr barreyiaskalld.

Vtan gnyrr á eyre
ymiss bloð fara goðra.

---

[1]) *literæ initiali vacuum spatium relictum est.*

Suo kuað refr.

Vôg þrysta berr vestan
vêtti ek branndz fyrir lanndi
hualmęne skefr buna
hugdyr ǫf lôg bugu.

Suo kuað sueinn.

Þa er elreifar ófu fals við frost of alnar
êgiss dêtr ok têttu fiarðgarz rokur harðar.

Suo kuað refr.

Fêrir biôrn þar er bara opt j êgiss kiapta
brestr vnndinna festa vtsuôl gymiss vôlfa.

Her er suo sagt at allt er eitt êgir ok hler ok gymir.

Ok enn sem hann kuað.

En siagnipu sleipnir ranar rauðum steine
slítr vínndríðinn huitar runnit briost or munne.

Suo kuað einarr skulason.

Harðr hefir aurt fra iôrðu
eluinndr suana strindar
blackr lêtr j sogh sôckua
snêgrunnd skipe hrundit.

Ok enn sem hann kuað.

Margr ris en drifr dorgar
dynr stônng j suigh lôngum
spennd verða stôg stunndum
stirðr keipr fyrr a greipum.

Ok enn.

Grans[1] bera gullna spanu
gôfug ferð er su jôfre
skytr holmfiôtur heita
hrafne sneckiu stafna.

Ok enn sem hann kuað.

Haust kaulld skottar helldr
holmrônd varar andre.

---

[1]) *s.* grams; grās, *membr.*

Ok enn.

Sunndr sprinngr sualra randa
snêriss giôrð fyrir borðum.

Suo kuað snêbiôrn.

Huatt kueða hrêra grotta
her grimmaztan skeria
vt fyrir jarðar skauti
eyluðrs ix. bruðir.
Þêr er lunngs fyrir lônngu
liðmelldr skipa hliðar
baugskerðir ristr barðe
bol amloða molu.

Suo kuað einarr skulason.

Viknar ramr i rakna
reksaumr fluga straume
dags hrindr bôl þar er bleikir
bif grunda stag rifin.

*kenningar solar.*

[1]Hvernveg skal kenna sól. Suo at kalla hana dottur mundilfara systur mana konu glens. elldr himins ok loptz. Suo kuað skule þorsteinsson.

Glens beðía venr gyðiur
geðblið j ue siðann
lios kemr gott með gèislum
gransetrs ofan mana.

Suo kuað einarr skulason.

Huergi er beíta borgar — hár of hnossum vorum
bál grimmaztan skála. — heims vôfrloge sueimar.

*kenningar vinndar.*

[2]Hvernveg skal kenna vinnd. Suo at kalla hann son forníotz bróður êgiss ok elldz. briót viðar. skaðe ok bane. hunndr êða vargr viðar êða segls êða seglreipa. Suo sagðe sueinn j norðrsetu drápu.

---

[1—2]) *Literis initialibus vacua spatia relicta sunt.*

Tóku fyrst til fiuka
forníots synir liotir.

*kenningar elldz.*

[1]Hvernveg skal kenna elld. Suo at kalla hann broður vínndz ok ægiss. bana ok grand viðar ok husa halfs bani. sol husanna.

*kenningar vetrar.*

[2]Hvernueg skal kenna vetr. Suo at kalla hann son víndsuals ok bana orma. ok hríðmal. Suo kuað ormr steinþórsson.

Reð ek þenna mög manne
víndsuals unað blíndum.

Suo kuað asgrimr.

Sígrgêðir var siðan
seimôrr j þrandheimí
þíoð veit þínar iðir
þann orms trega sannan.

[3]Hvernveg skal kenna sumar. Suo at kalla þat son suasaðar ok likn orma ok gróðr mars[4]. Suo kuað eigill skallagrimsson.

Vpp skulum varum suerðum
ulfs tannlituðr glitra
eigum dáð at dryia
j dal miskun fiska.

[5]Hvernveg skal kenna mannenn. Hann skal kenna við verk sitt þat er hann veitir êða þiggr êða gerir. hann ma ok kenna til eignar sinnar þeirrar sem hann á ok suo til þeirrar eignar sem hann gaf êða þá. suo ok við êttir þêr sem hann kom af. ok suo við þêr êttir sem fra honum koma. Hvernveg skal kenna hann við þessa lute. Suo at kalla hann vínnanda êða fremianda eða ...[6] farar[7] sinna

[1—3]) *Literis initialibus vacua spatia relicta sunt.* — [4]) *sic* (ms) *mbr.* — [5]) *Literæ init. vac. spat. relict. est.* — [6]) *sine lacuna mbr.* — [7]) *sic* (f ar) *mbr. pro:* fara.

êða athafuar víga êða sêfara eða skipa eða vapna. ok fyrir þui er hann reynir vâpnanna ok viðr víganna. Þat er allt eitt ok vinnande. Viðr heitir tre ok reynir heitir tre. Af þessum heitum hafa skalldin kallat manninn ask êða hlyn lunnd êða ôðrum viðarheitum karlkendum ok kennt til víga êða skípa eða fiar. Mann er ok rett at kenna til allra ása heita. hann er ok kenndr við jôtnaheiti ok er þat flest háð eða lastmêle.

*kenningar kuenna.*

[1]Konu skal kenna til allz kuennbunaðar. gullz ok gimsteina auls ok víns ok til allz dryckiar þess er hon selr êða gefr suo til ôlgagna ok til allra þeirra hluta er henne samir vel at vinna eða veita. Rett er ok at kenna konu suo at kalla hana seliu êða lág þers sem hon miðlar êða gefr êða veitir. en selia ok lág eru tre, fyrir þui er kona kôllut til kenningar ôllum kuenkendum viðarheitum. en fyrir þa sôk er kona kend til gimsteina êða glersteina at þat var j fyrnd at konur baru þat a halse ser er kallat var steinasôrfi. en þat er nu suo fêrt til kenningar at kona er kennd við ôll steinaheiti. hon er ok kennd við allar asyniur ok valkyriur nornir ok disir. Konu er ok rett at kenna við athôfn sína ok við eign ok við êttir.

*capitulum.*

[2] Sua segir j bók þeirre sem edda heiter at sa maðr sem êgir het spurðe braga skalld meðal annarra hluta á huersu marga lunnd êser breytte orðtôkum skalldskaparens êða huersu môrg veri kyn hans. en bragi suaraði. Tuenn eru kyn þau er greina allan skalldskapinn. Ægir spyr. Huer tuenn. Bragi suarar. Mal ok hêttir. êgir spyr. Huert maltak er haft til skalldskapar. Brage suarar. þrenn er grein skalldskaparmals. êgir spyr. Huer þrenn. Brage suarar. Su er ein at nefna huern hlut sem heitir. aunnur grein er su sem heitir fornafn ok er

[1]—[2]) *Literis initialibus vacua spatia relicta sunt.*

su grein sua sett at ver kôllum þorr êða oðenn êða ty êða einn huern af asum êða alfum ok huern þeirra sem ek nefnir til þa tek ek með heíti af eígn annars assens. êða get ek hans verka nokkurra þa eignaz hann nafneð en eigi hinn er nefndr var suo sem þat er at ver kôllum sigty êða hanngaty êða farmaty þa er þat oðensheiti ok kôllum ver þat kennt heite. suo ok at kalla reiðarty. Þetta er at segia vnngum skalldum þeim er girnaz at nema mal skalldskapar ok ..efía ser orðafiôlda með fornum heitum êða kunna at skilia þat er myrkt er kueðit ok hulit. En eigi skulu kristnir menn trua a heiðin goð. ok eigi a sannindi þuilikra frasagna ôðruuiss enn suo sem skrifat finnz j fyrsta capitula greíndrar bokar þar sem segir af skipan himins ok jarðar. ok allra hluta er þeim fylgia. þar segir ok af þvi er mannfolkit villtiz sua at j vpphafe heimsbygðarennar kunno faer menn deile a sinum skapara ok miclu fleire hluter eru þeir þar greindir sem trulegir eru ok sannlegir.

*kenningar gullz.*

[1]Huernveg skal kenna gull. Suo at kalla þat elld êgiss ok barr glasiss. hadd sifiar. hôfutband fullu. grat freyiu. munntal ok orðtak ok rôdd jôtna. dropa êða regn êða skur draupniss êða augna freyiu. otrsgiôlld. nauðgiôlld ásanna ok fyrisvalla. haugþak hôlga. elldr êgiss ok elldr allra vatna. hanndar griot. froða miôl. feniu melldr ok meniu. kraka sáð ok sker eða blik hadda[2].

*kenningar manna.*

Maðr er kallaðr bríotr gullzens. Suo kuað ottarr svarte.

Goðmennis þarf ek gunnar
gullbríotanda níota
her er alnennen inne
inndrótt með gram suinnum.

---

[1]) *Literæ initiali vac. spat. relict. est.* — [2]) *sic mbr.; rect.* hadda.

Gullsendir sem kuað einarr skalaglamm.

Gullsendir lêtr grundar
glaðar þeingill her meingi
hans mêtti kná . . . . . .[1]
hlíot yggs miaðar niota.
Liðbrôndum kna lundar
landfrékn jôfurr grannda
hyckað ek rêsiss recka
rínar griot of þríota.

Gullstriðir sem kuað þorualldr.

Gullstriðir verpr glóðum
gefur[2] . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . suo at rett er at kenna til skips eða gullz. Ran er sagt at var kona êgiss. suo sem her er kueðit.

Hrauð j himin upp gloðum
hafs geek siárr af afle
borð . . . . . . . . . sk . . skerðe
skaut ranar uegr mána.

Dêtr þeirra êgiss ok ranar eru níu. himinglêfa dufa bloðughadda hefring. vðr. hrônn. bylgia. drôfn. kolga. Einarr skalaglamm talde . . . . . . . visu. se . . nôfn þeirra.

Êsir huast af hraustum
himinglêfa þyt sêfar
glymrvnnar vex . . . . e
gôndlar . . ufs ok dufa
brêdd strykr bloðughadda
brimsolgin fellr kolga
h . . yr skilr he . . . . . . er
haflauðr of við rauðan.

---

[1]) *sine lacuna mbr.* — [2]) *sic plene scriptum (non* gefr) *in mbr. 757. — Hic unum folium deesse videtur.*

